Skýrsla

UM

# STIPTSBÓKASAFNIÐ

Í REYKJAVÍK

EPTIR BÓKAVÖRÐINN

JÓN ÁRNASON.




REYKJAVÍK.
Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS. EINAR ÞÓRÐARSON.
1862.

„Blindur er bóklaus maður“, segir sannmæli eitt, sem vjer Íslendíngar könnumst allir við, og líkjumst í því öðrum menntuðum þjóðum, sem ekki þykjast geta fullþakkað það forsjóninni, að þær geti notið óteljandi hagsmuna, fróðleiks og ánægju af bókum, bæði einstakra manna og opinberra bókasafna, sem almenníngur ætti ekki annars kost á. Þó eiga opinberu bókasöfnin að gjöra mest að í þessu falli, samkvæmt tilgangi sínum, því þeim er það einum ætlandi, að hafa efni á að eignast þau rit, sem einstökum mönnum er um megn að kaupa, og ef til vill ekki þarft að eiga, eptir að þeir hafa farið yfir þau til hlítar. Af þessu keppast allar siðaðar þjóðir við, að koma upp hjá sjer svo góðum bókasöfnum, sem efni þjóðarinnar (ríkisins) ítrast leyfa, og sem samsvari, sem mest auðið er, þörfum landsmanna og kröfum tímanna; stjórnendurnir finna skyldu sína í að stuðla til þessa af öllum mætti, og þjóðþingin, þar sem þau hafa fjárforræði landanna í höndum, leggja slíkum stofnunum örlátlega fje til eflingar og aukningar, umhirðingar og viðhalds; eins er aptur á hinn bóginn alin önn fyrir því, að slík söfn verði þjóðinni sjálfri að sem mestum notum.

Vjer Íslendingar vorum einnig svo heppnir, að bókasafn var stofnað handa oss; það er »*stiptsbókasafnið*«, bókasafn alls landsins í Reykjavík. Hinn fyrsti frumkvöðull til þess var hinn mikli menntavinur konferenzráð *C. C. Rafn* í Kaupmannahöfn, sem lengi hefur reynzt

safninu hinn mesti bjargvættur. Hann kom fótunum fyrst undir safnið 1818, og safnaði handa því miklum bókagjöfum bæði í Danmörk og víðar. Eptir það gekkst bókmenntafjelagið íslenzka, sem ávallt hefur sýnt bókasafninu hinn mesta sóma, og stiptsyfirvöldin fyrir frekara fyrirkomulagi safnsins, og söfnuðu handa því bæði hjer á landi, og lögðu kröptug meðmæli sín til þess við stjórnina, að hún styrkti[1] safnið í fyrstu með fjegjöfum og bókum frá ýmsum vísindastofnunum í Danmörku. Þrjú registur hafa verið samin yfir safnið; hið fyrsta þeirra var prentað á kostnað bókmenntafjelagsins 1828 í Kaupmannahöfn. Átti þá safnið 3,777 bindi. Annað registrið var prentað 1842; en af því er ekki auðvellt að sjá, hve mörg bindi safnið hefur þá átt. Þriðja registrið var samið árin 1849 og 1850, og er enn óprentað; mun þá safnið hafa átt hjer um bil 6000 bindi eptir allt róskotið, sem haft var á því árin 1847 og 1848; því þá (1847) var safnið allt rifið niður, flutt upp í skóla, hlaðið þar í hlaða í alþingissalnum, meðan dómkirkjan var undir aðgerð þessi árin — en á lopti hennar hefur það jafnan verið geymt — og síðan flutt í dyngju ofan á kirkjulopt aptur. Eptir þetta þótti ekki vanþörf á nýrri niðurröðun safnsins og nýju registri, en þótt talsvert væri til af registrinu frá 1842[2]. Það gefur að skilja, að safninu hefur ekki í neinu tilliti farið fram við flutninginn fram og aptur, og upp úr því klórinu er mjer ekki grunlaust um, að sumir velgjörðamenn safnsins erlendis hafi farið að trjenast upp á að senda því, eptir því sem heyrzt hefur eptir nokkrum þeirra, að þeir vissi

1) Sjá Lagasafn handa Íslandi VIII, 231. f. bls. 376. f. 379. 381. 385. f. 410., 467. 561. f., 600. f. IX. 108. bls. 197. f. 397. f. og 500. bls.

2) Sjá Ný Fèlagsrit, 4. ár, 131.—142. bls.

ekki, hvort stiptsbókasafnið væri til, eða ekki, þar sem þess væri að engu getið, hvorki í sjerstökum skýrslum, nje heldur í blöðunum, sem prentuð hafa verið hjer í bænum nú í samfleytt 16 ár[1], nema ef telja skyldi að tvisvar hafi verið auglýstar reglur fyrir bókaútláni, í 2. ári Þjóðólfs 1850, nr. 47, 187.—188. bls., og í sama blaðs 6. ári, nr. 143, 205. bls., 1854, sem hafi verið svo lagaðar, að þær því miður, hafi ekki laðað menn að safninu, hvorki til að leita sjer þar bókaláns, nje til að hlynna að því. Auk þessa hefur hin íslenzka stjórnardeild í brjefi 13. júní 1860[2] skýrt nokkuð frá safninu, og Íslendingur getið þess í 2. ári, nr. 16.

Bæði skýrsluleysið um þessa opinberu stofnun landsins og miður heppilegt fyrirkomulag á útlánsreglunum hefur knúð menn, bæði innlenda og útlenda, til að skora á mig, sem kunnugan, að skýra frá því, hvað safninu liði, síðan eg tók við því 1849 eða 1850 Jeg hefi viðrað þetta fram af mjer hingað til, ekki af því að ekki væri mál, þó fyr hefði verið, að auglýsa ástand safnsins, heldur af því að jeg hefi búizt við, að stjórnendur þess mundu gjöra það. En af því málið snertir mig að nokkru leyti, skal jeg ekki með öllu skorast undan að skýra frá þeim atriðum, sem mjer eru kunnug hjer að lútandi.

Jeg get þá fyrst og fremst fullvissað þá, sem kynni að halda, að stiptsbókasafnið væri liðið undir lok, um það, að það er enn við lýði, þó jeg geti ekki dulizt þess, að heldur sje farið að dofna yfir aðsókn að safninu, einkum 2 næstl. ár, og skal jeg færa sönnur á mál mitt með stuttu yfirliti yfir þau bindi, sem ljeð hafa verið og lesin, frá því útlánið byrjaði aptur 16. sept. 1850 og til 31. desember 1861:

1) Sjá Þjóðólf, 14. ár, nr. 21.—22., 82. bls.

2) Sjá Tíðindi um stjórnarmálefni Íslands. VII. 361.—363. bls.

Frá 16. sept. 1850 til 12. sept. 1851 voru 55 lántakendur og 1545 bindi út ljeð.
— 13. sept. 1851 til 31. des. 1852 voru 64 lántakendur og 1518 bindi út ljeð.
— 1. jan. 1853 til 31. des. 1853 voru 64 lántakendur og 1193 bindi út ljeð.
— 1. jan. 1854 til 31. des. 1854 voru 58 lántakendur og 1422 bindi út ljeð.
— 1. jan. 1855 til 31. des. 1855 voru 42 lántakendur og 1296 bindi út ljeð.
— 1. jan. 1856 til 31. des. 1856 voru 39 lántakendur og 879 bindi út ljeð.
— 1. jan. 1857 til 31. des. 1857 voru 45 lántakendur og 1085 bindi út ljeð.
— 1. jan. 1858 til 31. des. 1858 voru 48 lántakendur og 1278 bindi út ljeð.
— 1. jan. 1859 til 31. des. 1859 voru 43 lántakendur og 1190 bindi út ljeð.
— 1. jan. 1860 til 31. des. 1860 voru 37 lántakendur og 918 bindi út ljeð.
— 1. jan. 1861 til 31. des. 1861 voru 36 lántakendur og 651 bindi út ljeð.

Þegar litið er á lántakendurna, verða þeir að meðal tali þessi 11 ár rúmlega 48 á ári, en ljeð og lesin bindi af safninu eins að meðaltali á ári nálega 1180. Gerði maður nú, að 8000 bindi væri til á bókasafninu, þá þyrfti til að lesa þá bindatölu rúmlega 6½ ár, með jafnmörgum lántakendum, og jafnmikilli lántöku, og verið hefur að meðaltali. En þegar litið er til þess, hversu lántakendum hefur fækkað, og bindatalan minnkað, sem lesin hafa verið einkum næstliðið ár, er auðsjeð, að þessi áætlun kemst hvergi nærri heim. Svo er sumsje varið, að flestar bækur

safnsins standa óhreifðar ár eptir ár, aðrar en skemmtibækur, eða þær bækur, sem einungis eru lesnar í því skyni, þótt fræðibækur sje, og kemur það meðfram af því, að útlánsfrestur bókanna er svo stuttur, að menn sökum þess geta varla hjer í bænum notað til hlítar vísindabækur af safninu, því síður að öðrum lengra í burtu detti í hug að biðja um þær í því skyni; þess vegna eru þær flestar óhreifðar; en skemmtibækurnar, sem Reykvíkingar einir mega lána eptir 6. grein útlánsreglnanna, halda skemur kyrru heima fyrir. Væri nú hvorki skemmtibækur til á safninu, sem margt má segja um; hvort að eigi að vera þar, nje heldur fornsögurnar íslenzku, er jeg ekki óhræddur um, að lántakendurnir týndi góðum mun betur tölunni, ef ekki væri aptur rýmkað um útlánstímann á vísindabókum, og gjört svo frjálslegt sem auðið væri; en um útlán á skemmtibókum ætti alls ekki að rýmka hjer í bænum eða í Kjósar- og Gullbringusýslu, eins og ekki sjest heldur, hvers vegna einum er gjört hærra undir höfði en öðrum með útlán á þeim. Það er því mín skoðun, að safnið geti ekki með þessari tilhögun orðið landsmönnum að því liði, sem til hefur verið ætlazt bæði fyr og síðar af þessari þjóðstofnun, og á að vera, eins og þess er á hina hliðina vart væntandi, að landsmenn hlynni að safninu, meðan svona stendur, eins og þeir annars mundu finna sjer skylt.

Það væri ofætlun að vilja krefjast þess af bókasafninu, að það hefði til *allar* bækur, sem hverjum einum kynni að detta í hug að biðja um; enda vantar mikið á, að svo sje, og mun seint verða, meðan ekki er lögð meiri rækt við þessa stofnun. Safnið er, eins og kunnugt er, upphaflega orðið til af eintómum gjöfum velgjörðamanna þess, og á sama hátt hefur það mestmegnis auðgazt síð-

an, en hefur lítil efni[1] til að kaupa bækur fyrir. Því er engin furða þó að það vanti margar þær bækur, sem þjóðnýtar eru og óskandi væri að væri til. Að vísu hefur það drjúgum auðgazt af bókum síðan 1850 fyrir gjafir ýmsra vísindastofnana og velvild góðra manna, og eru sumt af því ágætisgóð verk, en ekki alsendis almenningsmeðfæri. Síðustu 7 árin hefur safnið og keypt fleiri og færri bækur árlega, og þó rúmið banni mjer, að gjöra hjer svo glögga grein fyrir þessum viðbættu bókum, sem jeg vildi og ætti að vera, set jeg þó hjer eptirfylgjandi yfirlit eptir árum frá 16. sept. 1850 til 31. des. 1861:

| | | |
|---|---|---|
| Árið 1850—51 bættust safninu gefins . . . | 17 | bindi. |
| Frá 1851 til 31. des. 1852 bættust safn. gefins | 618 | — |
| Árið 1853 bættust safninu gefins . . . . | 153 | — |
| — 1854 — — — . . . . . | 89 | — |
| — 1855 — — — . . . . . | 189 | — |
| — 1856 — — — . . . . . | 183 | — |
| — 1857 — — — . . . . . | 563 | — |
| — 1858 — — — . . . . . | 140 | — |
| — 1859 — — — . . . . . | 270 | — |
| — 1860 — — — . . . . . | 349 | — |
| — 1861 — — — . . . . . | 204 | — |
| Samtals gefins | 2775 | bindi. |
| Arið 1855 keypt . . . . . . . . . . | 151 | bindi. |
| — 1856 — . . . . . . . . . . | 72 | — |
| — 1857 — . . . . . . . . . . | 1 | — |
| Fyt | 224 | — |

1) Eptir anglýsingu stjórnendanna sjálfra í 6. ári Þjóðólfs, 205. bls., átti safnið þá (1854) um 2000 rd. í sjóði, og í Tíðindnm nm stjórnarmálefni Íslands, VII. 362. bls. stendur, að það eigi 2343 rd. 1860, og af ársrentunnm skuli jafnan leggja upp 50 rd.; annað er mjer ekki kunnugt um fjárhag safns þessa.

| | | | |
|---|---|---|---|
| | Flutt | 224 | bindi. |
| Árið 1858 | — . . . . . . . . . . . | 5 | — |
| — 1859 | — . . . . . . . . . . . | 142 | — |
| — 1860 | — . . . . . . . . . . . | 4 | — |
| — 1861 | — . . . . . . . . . . . | 60 | — |
| | Samtals keypt | 435 | bindi. |

Þetta ættl að vera alls 3210 bindi; en aðgætandi er, að hjer eru talin sem bindi ekki einungis hepti af bókum, sem ekki er nema lítill partur af bindi, heldur og einstök blöð, t. d. hver ein grafskript og verðlagsskrá frá prentsmiðjunni hjerna, eða lagaboð, sem út hafa komið sjerstök, svo að þetta eru ekki bindi í raun rjettri, þó svo sje talið. Þess vegna getur það og vart verið rjett hermt, sem stendur í fyr nefndu brjefi hinnar íslenzku stjórnardeildar 13. júní 1860, að þá hafi verið til í safninu *yfir 10000 bindi;* því þau eru það ekki enn, þó allt sje talið.

Allt að einu má segja, þegar litið er á næst fyrirfarandi yfirlit, að safnið hafi auðgazt stórum og haft nálega einstakt gjafalán síðan 1850, og því er það í alla staði skylt, að jeg geti hjer þeirra stofnana og einstakra manna að nokkru, sem orðið hafa til að auðga það, þó jeg, því miður eigi ekki kost á að lýsa bókunum sjálfum ítarlegar eða efni þeirra, eins nákvæmlega og þörf væri. Jeg set þá hjer bókagjafirnar *eptir löndum*, byrja á þeim, sem mest hafa til lagt, og held svo niður eptir.

*Ísland.* „Holt er heima hvað" stendur þar, og svo hefur stiptsbókasafninu reynzt, því flest hefur því bætzt af bókum frá Íslendingum, en þótt það fái hvorki ókeypis bækur þær, sem prentaðar eru á Akureyri, nje heldur þær íslenzkar bækur, sem prentaðar eru í Kaupmannahöfn af öðrum en bókmenntafjelaginu. Frá prentsmiðju landsins í Reykjavík hefur bókasafnið fengið árlega, það sem þar

hefur verið prentað síðan 1852; það eru 349 bindi, eða rúmur þriðjungur af öllum þeim bókum, sem því hafa bætzt frá Íslendingum síðan 1850. En af þeim bókum, sem hjer voru prentaðar frá 1844 til 1851, mun það eiga að eins 3 eða 4 bindi.

Bókmenntafjelagið hefur og haldið fram hinni sömu velvild, sem það hefur sýnt safninu frá því fyrsta, að það var stofnað, og hefur forseti deildarinnar hjer jafnan ávísað því árlega síðan 1853 þær bækur, sem fjelagið hefur gefið út, eins og einnig þær bókmenntafjelagsbækur, sem safnið átti ekki áður, að því leyti sem þær voru til óseldar. Síðan 1853 hefur bókmenntafjelagið þannig lagt að mörkum við safnið 73 bindi.

Frá stiptsskrifstofunni hefur safnið fengið fyrir góðvild hlutaðeigenda þar bæði tilskipanir, opin brjef og auglýsíngar, sem þangað hafa verið sendar frá stjórninni, alls 109 nr. síðan 1855.

Af einstökum mönnum má jeg telja fremstan herra Jón Sigurðsson skjalavörð, sem hefur annaðhvort ár sent safninu eða fært því sjálfur bækur að gjöf, og auk þess komið þar ávallt fram, sem safninu hefur verið til góðs, eins og þess manns er von og vísa. Frá honum eru komin alls 133 bindi, þar af eru 2 handrit.

Frá fyr nefndum 3 stofnunum og Jóni eru komin

| | |
|---|---|
| alls . . . . . . . . . . . . | 664 bindi (nr.) |
| — Dr. sál. H. Scheving[1] (þar af 32 nr. í | |
| Flyt | 664 bindi. |

1) 1860 gaf Dr. Scheving safninu 22 nr. af handritum, sem Hans heitinn, sonur hans, hafði átt, og er margt af þeim allmerkilegt; en árið sem leið gaf hann því hin 85 bindin; eru það allt góðar bækur, flestar latínskar og grískar, en mest kveður þó að um handritin, 10 nr., því þar á meðal eru 4 orðasöfn eptir hann sjálfan og 2

| | |
|---|---|
| | Flutt 664 bindi. |
| handritum) . . . . . . . . . . | 107 — |
| Frá Consúl og kaupm. M. Smith . . . | 105 — |
| — Skólakennara H. Kr. Friðrikssyni (þar af 7 nr. í handritum) . . . . . . | 38 — |
| — Prófessor P. Pjetursyni . . . . | 28 — |
| — Frú S. Thorgrimsen, nú í Khöfn, (allt handrit) . . . . . . . . . . | 13 — |
| — Stúdent P. Pálssyni[1] (þar af 2 handrit) | 7 — |
| — Sjera Svb. Hallgrímssyni á Glæsibæ . | 7 — |
| — Bókbindara J. Borgfirðingi á Akureyri (þar af 1 handrit) . . . . . . . . | 7 — |
| — Stúdent Anton Möller . . . . . | 4 — |
| — Biskupi H. G. Thordersen . . . . | 3 — |
| — Etazráði Th. Jónasson . . . . . | 3 — |
| — Konferenzr. B. Thorsteinson, handr. . | 2 — |
| — Stúdent H. sál. Scheving . . . . . | 2 — |
| — Amtmanni P. Havstein . . . . . . | 1 — |
| — Sjera Skúla Gíslasyni á Breiðabólstað, handrit . . . . . . . . . . | 1 — |
| — Sjera Þ. prófasti Jónssyni í Hvammi | 1 — |
| | Flyt 993 bindi. |

eptir aðra. Stiptsbókasafnið má með fyllsta rjetti harma þenna öldung, sem ljet sjer jafn annt um það, eins og hann ætti það sjálfur.

1) Enginn maðnr hefur á seinni árum verið jafn þarfur bókasafninu, og þessi maður, eða lagt meira í sölurnar fyrir það, þar sem hann hefur jafnt og þjett verið að binda inn handrit, þess með einstakri alúð og vandvirkni, skrifa upp og lappa við það, sem svo var á sig komið, að það þoldi ekki band án þess. Hann hefur og skrifað upp yfirlit yfir efnið í hverri bók, sem hann er búinn með, en það er megin hluti handritanna, svo úr þessu yrði fyrst vinnandi vegur, að semja greinilegt registur yfir handrit safnsins. Páll hefur varið til þessa bæði efnum, tíma sínum og kröptum alveg endurgjaldslaust híngað til.

| | | |
|---|---|---|
| | Flutt | 993 bindi. |
| Frá Óðalsbónda Hjálmi Pjeturssyni í Norðtungu, handrit . . . . . . . . | | 1 — |
| — Faktor Óla Finsen . . . . . . | | 1 — |
| — Faktor Þ. Jónatanssyni í Flensborg . | | 1 — |
| | Alls | 996 bindi. |

Þá tel jeg *Svía* þessu næst, sem mestan sóma hafa sýnt þessari þjóðstofnun vorri á þessu tímabili af útlendum þjóðum. Það eru mörg vísindafjelög og margir einstakir menn æðri og lægri í Svíþjóð, sem tóku sig saman um þetta, mest og bezt fyrir milligöngu herra A. Rydqvists, bókavarðar í Stokkhólmi, og sendu safninu fyrst 1852 hjer um bil hálft 6. hundrað binda, einhver hin beztu verk eptir Svía sjálfa, og í annað sinn 1857 yfir 100 bindi; voru þau sum framhald af hinum fyrri, og svo önnur ný. Ein vísindastofnun er það, sem síðan hefur næstum árlega sent safninu ársrit sín, en það er hið konunglega vísindafjelag í Uppsölum. Eru nú alls komin híngað frá Svíþjóð 657 bindi. Það er mælt, að þessi gjöf frá Svíum sje svo undirkomin, að þegar registrið yfir stiptsbókasafnið, sem prentað var 1842(?), kom þangað í land, færi Svíar að skoða það, og leita í því að svenskum bókum, og hafi þeim blöskrað, er þeir fundu ekki nema eina eða tvær í öllu safninu, enda hafa þeir nú bætt heiðarlega úr þörfum vorum, og sýnt í því, að þeir gangast við frændsemi vorri að fornu fari.

Frá *Þýzkalandi* hefur safnið fengið mestar gjafir frá útlöndum, næst Svíþjóð; eru þær bækur allar frá einstökum mönnum, og þó langflestar frá einum (Brockhaus), sem enginn veit að hafi átt neitt við Ísland að meta. Þó hefur »der Stettische Ausschusz für Pommersche Geschichte und Alterthumskunde« sent hingað árlega ársrit sín langa

lengi, líklega fyrir tilstilli herra konferenzráðs Rafns. Þessi ár eru komin þaðan 10 hefti.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Frá | bóksala F. A. Brockhaus[1] sál. í Leipzig | 214 | bindi |
| — | Dr. Konráð Maurer í München . . . | 4 | — |
| — | Dr. C. Th. von Siebold . . . . . . | 1 | — |
| — | Dr. Th. Möbius í Leipzig og Guðbr. Vigfússyni | 1 | — |
| — | Dr. G. G. Winkler . . . . . . . | 1 | — |
| — | ónefndum gjafara . . . . . . . . | 132 | — |
| | Alls | 353 | bindi |

Frá *Danmörk* hefur safnið fengið á þessu tímabili margar bækur, enda líta Íslendingar helzt þar til liðs, eins í þeim efnum og öðrum, sem eðlilegt er, úr því þær þjóðir hafa átt og eiga svo mikið saman að sælda. Bókasafn konungs hið mikla hefur einu sinni, síðan jeg þekki til, nfl. 1860 sent hingað 222 bindi, sem þar var til tvennt eða fleira af áður, svo hjer hafa þá enn rætzt fyrirheit þau, sem stiptsbókasafninu voru fyrst gefin í kanselíbrjefi 2. okt. 1824 (sbr. fyr nefnt brjef hinnar ísl. stjórnardeildar frá 13. júní 1860). Þá er Fornfræðafjelagið í Khöfn, sem hefur við og við sent hingað sumar þær bækur, sem það hefur gefið út; en af því jeg treysti mjer ekki til að aðgreina, hvað sje gjafir frá þessu fjelagi, og hvað frá herra konferenzráð Rafni, sem fyrstur kom fótunum undir stiptsbókasafnið, og hefur sent því bækur síðan opt og stórum, bæði frá fyr nefndu fjelagi, sjálfum sjer, og ef til vill öðrum, bæði einstökum mönnum og stofnunum, þá get jeg þess hjer, að frá honum hafa komið alls til safnsins, síðan 1850, 91 bindi, þar af er eitt frá Árna Magnússonar-nefndinni. Þó enn vanti mikið á, að safnið eigi allt, sem konferenzráð

1) Bækurnar frá Brockhaus eru allar úrvalsverk, og ekki af verri endanum, og eins einstakar í því tilliti, eins og þær eru einstök heiðursgjöf af einum manni.

Rafn, Fornfræðafèlagið og Á. Magnússonar-nefndin hafa gefið út af norrænum bókum, treysta allir svo vel þessum frumstofnanda stiptsbókasafnsins, sem allir vita að ann því alls þroska og viðgangs, og er þar hjá svo mikils megnugur í báðum næstnefndum stofnunum, að úr þessum bresti verði bætt á sínum tíma.

| | |
|---|---|
| Frá þessum stofnunum og Rafni eru komin . | 313 bindi |
| — det statistiske Bureau . . . . . . . | 29 — |
| — Kongens Haandbibliothek . . . . . . | 9 — |
| — J. von Ræder . . . . . . . . . . | 1 — |
| — H. Tr. Rördam . . . . . . . . . . | 1 — |
| Þannig eru gefin hingað frá Danmörk síðan 1850 | 353 — |

Frá *Ameriku* hefur safnið fengið næstliðin 10 ár alls 180 bindi. The Smithsonian Institution í Washington í Norður-Ameriku hefur orðið drjúgust um að senda hingað bækur þaðan, og gengizt fyrir, að önnur vísindafjelög og einstakir menn þar hafa einnig sent hingað bækur. Margt af þessum bókum eru ágætisverk í sinni tegund, en vegna málsins (þau eru öll rituð á ensku) ekki almenningsrit.

Frá *Noregi* hefur safnið og fengið margar góðar bækur, bæði frá opinberum stofnunum og einstökum mönnum. Sýna Norðmenn í því rækt sína til vor Íslendinga, og að þeir hafa ekki gleymt því, að þeir eru af sama bergi brotnir og vjer. Friðriks-háskóli í Christianíu sendir hingað árlega flest boðsrit sín (Programmata) og ýms rit önnur,

| | |
|---|---|
| eru það nú orðin síðan 1852 . . . . . . . | 126 bindi |
| Þar næst hefur stjórnardeild kirkju- og kennslumálanna þar sent hingað Fornbrjefasafnið mikla (Diplomatarium Norvegicum), sem Norðmenn eru að gefa út, og ýmislegt annað[1] . | 17 — |
| Flyt | 143 — |

1) það er athugandi, að skrautverkið mikla um þrándheims dóm-

| | | |
|---|---|---|
| | Flutt | 143 bindi |
| „Udgiveren af Kildeskrifter til Norges Historie" (Ríkisskjalavörður Ch. C. A. Lange sál.) . . | | 6 — |
| Professor R. Keyser . . . . . . . . . | | 4 — |
| Ónefndur maður (Nordisk Universitets Tidsskrift) | | 3 — |
| Markus Rask . . . . . . . . . . . . | | 1 — |
| | Alls | 157 — |

Frá *Hollandi* fjekk safnið 36 bindi af latínskum rithöfundum 1856; var það gjöf frá prins Vilhjálmi, sem hjer var á ferð það ár.

Frá *Bretlandi hinu mikla* hefur safnið að vísu fengið nokkrar bækur, en *þó nærri því færri*, en von væri *á*, eptir svo talsverðar samgöngur og viðskipti, sem verið hafa síðan 1858 milli þeirra landa og Íslands. Frá Englandi og Skotlandi eru komin til safnsins síðan 1857:

| | | |
|---|---|---|
| Frá the Philological Society í London . . . . | | 9 bindi |
| — Dr. L. Lindsey (þar af er 1 *Flora Islandica*) | | 6 — |
| — R. Chambers Esq. í Edinborg (bókmenntasaga ensk) . . . . . . . . . . . | | 2 — |
| — A. J. Symington Esq. í Glasgow . . . . | | 2 — |
| — Dr. D. Machinlay í Glasgow . . . . . | | 1 — |
| — Mr. Alfred Nebel . . . . . . . . . | | 1 — |
| | Alls | 21 — |

Frá *Frakklandi* hefur safninu þó hlotnazt enn færri bækur, en frá Englandi og Skotlandi, og aldrei nema árið

kirkju — þar eru í yfir 30 myndablöð í arkarbroti — og „Keysers Norske Kirkehistorie under Katholicismen", sem stjórnardeild þessi hafði sent í kassa til Khafnar og gefið til stiptsbókasafnsins, samkvæmt brjefi hinnar ísl. stjórnardeildar 31. júlí 1860, er enn hvorugt komið til bókasafnsins, og vansjeð, hvort gefendurnir viti nokkuð um þessi óskil; en vart munu þeir vera búnir að fá kvittun þá, sem óskað er eptir í sama brjefi.

1856, sem prins Napoleon var hjer; hann gaf safninu 4 mjög merkileg verk . . . . . . . . . . 11 bindi
og sama ár sendi herra P. Gaimard safninu . 1 —
Alls 12 —

Þegar jeg hefi nú vikið á þær stofnanir og einstaka menn, sem hafa sýnt stiptsbókasafninu góðvilja, votta jeg þeim öllum opinberlega virðingarfyllst þakklæti í nafni safnsins fyrir gjafir þeirra, og það því fremur sem vera kynni, með því allir eru menn, að stjórnendunum hefði gleymzt að þakka fyrir sendingar þeirra til safnsins, en þótt jeg hafi við hver árslok myndazt við að senda stjórnendunum skýrslu um allt ástand safnsins á hinu liðna ári, sem hið framanskrifaða er dregið út úr, og þar á meðal um gefendurna, sem sumir hverjir hafa tekið það fram, að þeir vildi fá viðurkenningu fyrir viðtöku bókanna, og sumir, t. d. The Smithsonian Institution í Washington óskað að einhverju leyti endurgjalds í bókum aptur fyrir það, sem hún sendir. Þetta endurgjald mun hún og hafa fengið einu sinni eða tvisvar.

* * *

„Alls áni verþr
sá er einskis biþr;
fár hyggr þegjanda þörf".
Sólarljóð.

Það kynni að þykja óþarfi og „betl" eitt, eptir að menn hafa nú sjeð af skýrslu minni hjer að framan, hversu safnið hefur auðgazt af bókum, ef þess væri farið á leit við landsmenn og aðra góða drengi, sem unna vísindum, að leggja nokkuð að mörkum við bókasafnið. En jeg held, að þegar menn gæta betur að, muni þeir sjá, að það eigi þó ekki illa við, að þeir fari að góðra manna dæmum,

bæði innlendra og útlendra, sem hafa látið sjer sóma að hlynna að þessari þjóðstofnun vorri. Jeg get ekki sett það fyrir mig, þó einhver kynni að ímynda sèr, að bókasafnið væri fullríkt til að byrgja sig að bókum og öðrum nauðsynjum. Ekki heldur fælir það mig hót, þó sumir þingmenn snerist miður drengilega við uppástungunni á alþingi 1857, að norðlenzka prentsmiðjan miðlaði stiptbóksafninu einu expl. af hverri þeirri bók, sem þar væri prentuð (sjá þ. á. alþingistíð. 62.—70. bls.); því jeg hef þá trú, að þeir þingmenn, sem urðu til að mótmæla uppástungunni, hafi vart gjört sjer ljósa grein fyrir fram fyrir því, hvað þeim sæmdi að leggja til þess máls. Jeg ber þess vegna öruggur fram þá bæn í nafni bókasafnsins, en ekki mínu, að landsmenn leggist nú á eitt og miðli því, hver eptir sínum efnum og kringumstæðum, bæði fje, íslenzkum bókum og handritum, því safnið þarfnast alls þessa fullkomlega. Þó safnið kynni að hafa árlega úr þessu hjer um bil 100 rd. í rentu, sjá allir, þegar helmingurinn af þeim er árl. lagður við höfuðstólinn, sem aldrei má skeika, að hinir 50 rd. hrökkva næsta lítið fyrir bókbandi, þó minna þyrfti að binda, en nú þarf eptir svo langan tíma, sem lítið hefur verið bundið af prentuðum bókum, auk þess sem bandið á handritunum er allt óborgað enn. Safnið þarfnast og peninga til ýmislegs fleira, t. d. til skápagjörða, þar sem margar bækur verða nú að standa í hlöðum óuppsettar fyrir hylluleysi, og til að semja nákvæmt registur yfir handritin, svo menn geti vitað, hvað í þeim er fólgið, sem engum er unnt að vita eða muna til hlítar, þó hann hafi flett þeim, því síður að aðrir geti haft not af því. Þó ekki væri til annars en þessa, vantar safnið mikið á að geta byrgt þarfir sínar.

Í annari grein eru þá íslenzku bækurnar og handritin.

þó safninu bætist árl. talsvert af bókum, sem að framan er sýnt, eru þær nálega engar íslenzkar, nema þær sem því bætast frá prentsmiðju landsins og bókmenntafèlaginu, en eldri bækurnar ísl. eignast það fáar sem engar, og þó hèfur herra Jón Sigurðsson sýnt í því sem öðru velvild sína til safns vors, að hann hefur í Skírni 1858, XIX. bls., bent Íslendingum til þess, hversu mikið tjón bókmenntum vorum sje að því, að hvorki sje til neinstaðar hjer á landi nje hjá bókamenntafjelagsdeildinni í Höfn safn þeirra bóka, sem prentaðar hafa verið á íslenzku, og að bezt mundi fallið, að íslenzkar bækur væri gefnar til stiptsbókasafnsins hjer. Þetta er mála sannast; því eins og það ætti bezt við, að safnið ætti allar íslenzkar bækur, eins mundi það taka slíkum gjöfum bæði feginsamlega og þakksamlega. Tvennt er það, eins og Jón hefur tekið fram, sem varast þarf, að það fæli engan frá að senda safninu þá eða þá bók, að hún kynni að vera þar til áður, og eins hitt, að 2 eða fleiri útgáfur af sömu bók eru ekki sama bókin, heldur sín hvor, og hvort um sig ný bók. Eins væri það æskilegt, að þeir, sem gæfi út íslenzkar bækur, bæði erlendis og á Akureyri, vildu senda safninu 1 expl. af hverri.

Til handritanna mælist jeg, af því mjer virðist svo margur óskapaarfurinn hafa af þeim orðið bæði að fornu og nýu. Allir vita, að nú er svo komið fyrir löngu, að varla sjest hjer eptir eitt kálfskinnsblað fornritað, því síður heil bók; svo gjörsópað er hjer af öllu slíku. En ekki er það alveg minnkunarlaust fyrir það land, sem á miðöldunum var einna auðugast land af þeim fornmenjum, að nú skuli það ekki geta sýnt á aðalbókasafni landsins eina tætu af þess konar ferðamönnum þeim, sem koma hingað mörg hundruð mílur vegar, til að kynna sjer landshætti

vora, svo að þeir verða að hverfa hjeðan svo búnir og leita íslenzkra fornrita í útlöndum. Svona er nú komið fyrir skinnbókunum, og fyrir pappírshandritunum er lítið betur komið; þó ólíkt fleira sje enn til af þeim í landinu, er þó margt af þeim farið leiðina sína, en þau, sem eptir eru, eiga 3 ólíka húsbændur, sumir liggja nefnil. á handritum sínum, sem ormar á gulli, og vilja ekki farga þeim á neinn hátt, hvorki að sölu nje gjöf, hvorki ljá þau öðrum, nje leyfa að skoða. Þetta kann nú gott að vera, og líkindi að þau handrit hrekist ekki, meðan eigendurnir lifa, þó enginn viti, hvað vel þau sje hirt fyrir það. En nú er eptir að vita, hvað verður um þau, þegar eigendurnir falla frá, ef þeir hafa ekki ráðstafað þeim áður, þangað sem þeim er óhult. Hvaða vissa er þá fyrir, að erfíngjarnir sólundi þeim ekki, eða að þau verði ekki seld á uppboðsþingi og tvístrist svo víðsvegar? eins og forlögin hafa orðið fyrir svo mörgum slíkum söfnum. Þá eru aðrir, þessum mjög ólíkir, sem vilja heldur láta handrita druslur sínar hrekjast og handvolkast í lánum, þangað til þær verða ólesandi, slitna upp og týnast með öllu, en að hirða um að koma þeim á opinbert bókasafn, þar sem þeim yrði haldið til haga, gefendunum sjálfum til sóma, en öðrum til gagns eða ánægju. Þá eru og hinir þriðju, en það eru skynsemdarmennirnir, sem halda söfnum sínum saman með hyggni og hirðusemi, án þess bæði að meina öðrum að hafa gott af þeim, og eins án þess að láta handrit sín flækjast og eyðast á þann hátt, en ráðstafa þeim að lokunum þangað, sem þeir sjá þeim óhultast. Mörgum hefur að vísu orðið það torskilið, að þetta væri hyggilegasta aðferðin, en þó sýnist sem þeir fjölgi smátt og smátt, sem láta sjer skiljast það. Þegar talað er um óhulta staði að koma söfnum sínum á fyrir oss Íslendinga, sýnast ekki nema 2 til, annar er stiptsbóka-

safnið í Reykjavík, en hinn er hjá bókamenntafjelaginu; því að báðum þessum stofnunum er oss skyldast að hlynna, þær eru þjóðstofnanir vorar og landsins eign. Með stiptsbókasafninu mælir það, að þar er allmikið safn fyrir af handritum, mest frá þeim Hannesi og Steingrími biskupum, en sem þó hefur smátt og smátt aukizt seinna fyrir góðvild einstakra manna, sem að framan er á vikið. Annað er það, að safn þetta deyr ekki, eins og hver um sig af oss, þegar minnst varir, því það varir og lifir, meðan landið byggist, og hefur sjálfsagt ávallt opinbera stjórnendur og umsjónarmenn, og því er fullkomin vissa fyrir því, að þær bækur og handrit, sem þangað komast, geymast þar betur, en nokkurstaðar annarstaðar, og er betur borgið en nokkurs privat manns eigin bókum, með því bókasafnið er svo óhult fyrir eldsvoða, sem hjer er auðið. En hitt er vonandi, að stjórnin sjái svo fyrir, að þessi fjársjóður verði varðveittur fyrir skemmdum og nýju harðhnjaski, þó þakið á dómkirkjunni verði endurbætt, sem hingað til hefur reynzt ótrygt fyrir leka sakir. Af því jeg vænti, að landar mínir sjái af þessu, að þeir bera bækur sínar og handrit, sem þeir kynni að gefa stiptsbókasafninu, hvorki á bál nje í sjó, heldur að þeim muni verða haldið til haga bæði í þakklætisskyni við gefendurna og öðrum til nota, ítreka jeg þá enn hin fyrri tilmæli mín til Íslendinga, að þeir unni þessu bókasafni alls landsins allra þeirra ísl. bóka og handrita, sem þeir vilja án vera, og óska að varðveitist eptir sinn dag.

Að lyktum skal jeg þá leyfa mjer að benda á fáein atriði viðvíkjandi stjórn bókasafnsins, sem jeg verð að ætla að þurfi lagfæringar við. „Íslendingur“ hefur að vísu minnzt á stiptsbókasafnið í nr. 16, 2. árs, og þó hann beri mjer vel söguna, já jeg má segja betur en

jeg á skilið, þykir mjer hann hafa farið heldur fljótt yfir og ekki stungið þar á kýlinu, sem kveisan var undir. Honum þykja stjórnendur safnsins vera farnir að týna tölunni, þar sem ekki sje orðnir eptir nema 2 af 4, sem venja hefur verið að væri. En hvað ætli Íslendingur segi nú, þegar annar þeirra, sem hann taldi þá, er farinn líka, þó það sje ekki nema um stund? Það getur verið, að það þækti viðfeldnara eptir venjunni, að stjórnendurnir væri fjórir en færri, en aldrei hef jeg saknað þess — og „sá veit þó bezt, hvar skórinn kreppir, sem ber hann", — að nefnd þessi væri vanskipuð, þó höfðatalan í henni hafi fækkað; því síðan jústizráð sál. Thorsteinsen fjell frá, hefur mjer fundizt stjórnendurnir gjöra jafnmikið í stjórn safnsins, hvort þeir hafa verið fleiri eða færri, því einmitt síðan hef jeg fundið til þess, hvað lítið hefur verið gjört, og það hefur komið mjer á þá trú, að það væri ekki höfðatalan ein, sem gerði mikið, heldur góður vilji og umhyggjusemi fyrir málinu. Þegar betur er nú gáð að, veit jeg ekki, hvað það á að þýða, að hafa 4 forstöðumenn safnsins, allrasízt ef það er satt, sem mælt er, að á þessari forstöðu eða stjórnarnefnd sje ofur ófullkomið skipulag, að því leyti sem þar sje ekki, eins og í hverju öðru reglubundnu fjelagi eða nefnd, einn *forseti,* einn *skrifari* og einn *gjaldkeri,* heldur sje einn maður í stjórninni allt þetta í einum bögli. Væri nú þessi sögusögn sönn, þá yrði það líklega fyrsta nauðsynjaverkið, næst því að bæta í nefndina svo að í henni væri þó altjend 3 menn, að þessir stjórnendur eða nefndarmenn skipti með sjer störfum, svo að þau yrði *gjörsamlega* aðgreind milli þessara þriggja manna. En við 4. manninn sje jeg ekki hvað nefndin á að gjöra, úr því honum eru ekki falin bókavarðarstörfin, eins og var, á meðan stiptamtmaður og biskup voru í stjórn bókasafnsins.

Til þriggja manna stjórnarinnar með deildum störfum virðist líka íslenzka stjórnardeildin benda í fyr nefndu brjefi sínu frá 13. júní 1860, þar sem hún segir með berum orðum: „Stjórn stiptsbókasafnsins er, undir yfirumsjón stiptsyfirvaldanna, falin á hendur *þrem mönnum*, er búa í Reykjavík; er einn þeirra fjehirðir og semur á ári hverju reikníng um tekjur og gjöld bókasafnsins". Það er því hin fyrsta tillaga mín, að nefndinni verði hrundið í það lag, að hún skipti með sjer verkum á fyrsagðan hátt, ef að annars stiptsyfirvöldin og nefndin sjálf álítur sig ómissandi meðalgangara milli stiptsyfirvaldanna og bókavarðarins.

Hið annað atriði, sem þarfnast bráðrar lögunar, er það, að stjórn bókasafnsins auglýsi árlega ekki einúngis reikninga þess, heldur og ágrip af skýrslu þeirri, sem bókavörður sendir stjórnendunum, svo allir sjái, hvað margir lántakendur sje, hvað mörg bindi ljeð út, og að minnsta kosti hvað mörg bindi hafi bætzt við árl., keypt og gefin og af hverjum, ef það þækti of kostnaðarsamt að prenta bókatitlana alla. Ef slík skýrsla væri prentuð, mætti senda hana velgjörðamönnum safnsins og stofnunum þeim, sem sýna safninu sóma, og mundi slíkt verða tekið feginshendi, þar sem gefendurnir gæti um leið sjeð af skýrslunni allt hvað safninu liði, miklu betur en af eintómri viðurkenníngu fyrir hinum þegnu bókum eða þakklætisávarpi fyrir þær, sem safninu ríður þó allmikið á, að aldrei gleymist að senda gefendum.

Þá er hið þriðja, sem stjórn safnsins þarf að vinda bráðan bug að, ef bókasafnið vill láta sjer annt um að ná tilgangi sínum og vinna hylli landsmanna, en undir því sýnist reyndar allt komið, ef það á að ná nokkrum viðgangi, eða verða nokkurn tíma annað, en það sem það hefur verið nú um hríð, leigubókasafn einúngis fyrir

Reykjavík. Það er sumsje 5. og seinni hluti 6. greinar í útlánsreglunum, sem þarf að breyta; því eins og hjer að framan er ávikið, eru lítil líkindi til þess, að nokkrum manni lengra í burtu, t. d. austur í Múlasýslum, fyrir norðan land, *eða* vestur á Vestfjörðum, geti dottið í hug að biðja um bók af safninu, þegar hann má alls ekki, til hvers sem hann vill nota bókina, halda henni lengur en 8 vikur, eptir 5. gr., en þá að eins lengur en 4 vikur, að enginn hafi beðið um hana á þeim tíma. Hitt atriðið í 6. gr., að bókavörður megi að eins ljá skemmtibækur Reykjavíkurbúum, en engum utanbæjarmönnum, finnst mjer æði ójafnaðargjarnt. Allir vita líka, hvað einkarjettindi eru vel þokkuð á þessum tímum, og auðráðið, að safnið muni ekki verða vinsælla út um landið með því, að það ljái Reykvíkingum *einum* þessar bækur, sem ekki verður sjeð að þeir hafi fyllri rjett til, en hver annar landsmanna, úr því hjer er ekki að ræða um bókasafn fyrir Reykjavík eina, heldur allt land. Hjer virðist þá vera um það að gjöra að færa útlánsreglurnar í þessu tilliti aptur sem næst útlánsreglunum fyrstu frá 7. maí 1827, sem bygðar eru á miklu frjálslyndara grundvelli, og hafa sjer í lagi grundvallarákvörðunina nr. 2 frá 5. ágúst 1826 fyrir mark og mið; en þar segir svo: „Bókalánið á að verða á þann frjálsasta og almenningi nytsamasta hátt, og *öllum á Íslandi heimilt*", o. s. frv. Ef að þessu væri framfarið, sem hjer er fyrirmælt, er það varla yggjandi, að safnið ynni hylli landsmanna og næði betur tilgangi sínum, gagnaðist þörfum þeirra og gerði þá, þegar þeir sæi, að þeir gætu haft not af safninu, fúsari til liðveizlu við það aptur, sem það þarfnast svo mjög og í svo mörgu.

Lifið heilir, landar, og virðið ekki ver, en jeg hefi meint.

